## 8da Hugleiding,

sem Framhald út af því fiórda atridi Augsborg-
isku Trúarjátníngarinnar um

# Réttlætínguna.

Í þeirri næstu hugleidíngu út af Adal-atridum trúarbragda vorra, settum vér oss fyrir siónir, áftædur þess allramikilvægasta lærdóms, um vora Réttlætíngu hjá Gudi fyrir Christs fridþægíngar sakir, og sáum hversu þær eldúngis óyggjanliga eru á heilagri. Ritníngu bygdar, og hennar ótvírædum vitnisburdi. Þar hjá yfirvegudum vér og svo átillur þær, sem mótstandarar vorir leitast vid ad festa sig á, nefniliga þeir sem neita réttlæti Trúarinnar á Christ, annadhvert ad ellu edur hálfu leiti; en ad hálfu leiti kalla eg þá ad neita því, sem á því standa, ad verkin séu ásamt med trúnni undirstada vorrar réttlætíngar fyrir Gudi; en þá ad ellu leiti, sem seigja: ad á trúnni ridi eckert, heldur allt á verkunum. Atillur þessarar þeirra ímindunar —

ad svo miklu leiti þeir látast þar á skynseminni byggja — høfum vér, seigi eg, ádur heyrdt, og fundid þar fisi léttari; nú viljum vér framveigis stuttliga skoda þær í því tilliti, er þeir vilja leida þær út af sjálfri ritníngunni, svo vér því sídur látum oss af þeirra sjónhverfíngum á tálar draga.

Fyrst setja mótmælendur vorir þad fram: ad þegar Jesús var adspurdur (Luc. 10, 25. Matth. 19, 16): hvad madur gjøra skyldi, svo hann eignast gjæti eylíft líf? hafi hann ecki vísad til sinnar fridþægíngar, heldur til uppfyllíngar Guds bodorda. Hér til liggur létt svar: Allir vita, ad Gud hefir sett mønnum tvo veigi, til ad eignast eylíft líf; annan løgmálsins fyrir verkin, hinn evangelii fyrir trúna. Sá fyrri var Adam og Nidjum hans ætladur, ef mannlig náttúra hefdi ecki af syndinni spilst; en sá sídari eptir þad spillíngin var komin (Róm. 8, 3). Nú átti Jesús málstad vid þá menn, sem héldu uppá þann fyrra veiginn, og þessvegna vísadi Jesús þeim til hans; en sýndi þó bádum undir eins ofan á, hve mikid þá skorti ad gánga veg þann rettiliga, odium med dæmi søgunni um Samaritaninn og þann hrasada, hinum med rádleggíngunni: ad selja allar eigur sínar og gefa fátækum. Svo hefdu menn þessir íhugad þad, sem Jesús þeim tilbendti, ad hvørki hefdu þeir þángad til, né gjætu nockurutíma, geingid veg þennan fullkomliga, og ad þeim á honum væri

breint ómøguligt eyllfu lífi ad ná, og hefdu fídan ángur=bitnir fpurt Jesúm ráda, mundi hann án efa hafa fvarad þeim, eins og Gydíngum, þegar þeir (Joh. 6, 28) fpurdu hann ad líkri fpurníngu; ednr eins og Páll poftali fánga=verdinum (Gb. 16, 31) nefniliga: ad þeir fkyldu trúa á fig; til hvørs hann líka nockurnveiginn bendti ødrum þeirra, med því ad hann fagdi hønum, ad koma og fylgja fér eptir. Því til hvørs var ad predika þesfum mønnum evangelíum, fem ecki fkildu rétt løgmálid, eins og þad er ecki til neins, ad fá manni þeim læknisdóm í hendur, fem ecki þeckir ad hann fjúkur fé; því heilir þurfa ecki læknarans vid, fagdi Jesús (Luc. 5, 31). Þesfvegna var þad Jesú vidleitni í mørgum hans kénníngum, ad leida Gydínga til réttiligs fkilníngs á løgmálinu, um hvad hans lánga predikun á fjallinu (Matth. 5, 6, 7,) férílagi vitni ber. Svo leingi fem fá gamli hleypidómur um hid jardneska ríki Messíæ var ecki — jafnvel úr fjálfra lærifveinanna fálum — til fulls upprættur, (fem eigi gat fkéd, fyrr enn þeir, af Jesú dauddaga, og þó einkum af hans himnafør, fáu ad ecki var framar til þefs ad hugfa) fkírdi Jesús þeim ecki, nema med einftøku tilbendíngum, berliga frá fíns evangelifka ríkis náttúru; og fyrir þá fkuld fagdi hann vid þá, í finni fkilnadar=rædu (Joh. 16, 12): ad

hann enn nú ætti margt eptir ósagt þeim, sem þeir ecki væru færir ordnir móti ad taka; en lofadi þeim ad heil. Andi skyldi sídar uppfræda þá um þad tilbrísti; og eptir þad þeir høfdu hans uppfrædingu feingid, tóku þeir mest ad predika þann dýrmæta fridþægíngar lærdóm med trúnni á Jesúm, hverja predikun þeirra drottinn þá voldugliga med táknum og furduverkum stadfesti (Ebr. 2, 4); hver drottins adferd oss er stór røksemd fyrir þessa lærdóms guddómliga sannleika.

Í annan máta vilja hneckjendur þessa lærdóms setja á móti oss ýmsar eptirlíkíngar Christs, og adra stadi ritníngarinnar, einkum þess gamla testamentis, hvar synda fyrirgéfníng lofast ad eins under skilmála hjartalags og lifnadar betrunar, en trúin er ecki — því sídur Christs fridþægíng — á nafn nefnd; svo sem í eptirlíkíngunni um þann fortapada son (Luc. 15, 11—32), um þjóninn sem herran gaf upp alla skuldina (Matth. 17, 26) og s. frv. En þessari mótsøgn er hægt ad gégna:

Nefndar eptirlíkíngar sýna ad eins Guds nádar ríkdóm yfir høfud, og ad hann, án vorrar eigin fullnægjingjørdar, fyrirgéfa vilji syndirnar; en þad fylgir samt ecki þar af, ad hann ecki heimti fullnægjingjørd eins borgunar-manns. Þad stendur þó ecki í textanum, segja hinir! Ad vísu ecki í þeim stødum; en ótal stadir ritníngarinnar

adrir eru samt til, (eins og ádur er sagt), sem fastsetja þad; eg vil enn nú, ad nýu, framsetja nockra, þar þessi blessadi lærdómur verdur aldrei of-vel stadfestur. Í øllum sínum sendibréfum stendur Páll postuli fast á þessu máli, og þad sýnist ad vera rétt sem andinn í øllum hans kénníngum.

Í sendibréfinu til Rómverja (hvørs adal-augnamid virdist vera stadfesting þessa lærdóms) seigir hann (Róm. 3, 24. 25): ad vér réttlætumst án verdskuldunar, af Guds nád, fyrir þá endurlausn, er skén skè fyrir Jesúm Christ, og ad vér fáum fyrirgéfníngu syndanna, fyrir trúna á hans blód (ednr á hans pínn og dauda); og margt annad seigir hann þessu líkt. Í sendibréf. til Korintumanna (2 Cor. 5, 19—21) kénnist hann svo ad ordi: ad Gud hafi í Christo sætt heiminn vid sjálfan sig, og ad hann hafi gjørdt Christ ad synd í vorn stad, svo vér yrdum réttlættir fyrir Gudi, hans vegna. Til Galatiskra skrifar hann (Gal. 2, 16): ad einginn verdi réttlættur af sinni hlýdni vid løgmálid, heldur einasta fyrir trúna á Christ, hvør frelsad hafi oss frá løgmálsins bølvan (3, 13), med því ad gjørast á krossinum bølvan í vorn stad. Ephesiskum skrifar hann (Eph. 1,

2): ad vér höfum þá endurlausn — (sem falin sé í fyrirgéfníngu syndanna — feingid fyrir Christs blód; og (2, 16): ad hann hafi sætt oss vid Gud fyrir sína krossfestíngu. Vid þá i Philippis (3, 9) seigir hann: ad eckí hafi hann sitt réttlæti af lögmálinu, heldur fyrir trúna á Christ, hvör uppprisinn og píndur sé. Þeim i Kolossis skrifar hann eins og þeim i Epheso (Kol. 1, 14. 20): ad vér höfum endurlausnina; nefniliga syndanna fyrirgéfníngu, fyrir Guds sonar blód, og ad hann hafi fridinn milli Guds og manna samid fyrir sitt blód á krossinum úthellt, og sinn líkama, er hann i daudan gaf.

Til Thessalóniskra seigir hann (Thess. 5, 9. 10), ad Gud hafi svo tilsett: ad vér skyldum hólpnir verda fyrir drottinn vorn Jesúm Christ, sem fyrir oss dáinn se. Til Tímótheum skrifar hann (1 Tim. 1, 5. 2, 5): ad þad sé dýrmætt og mjög verdugt ord: ad Jesus Christur sé í heiminn kominn, synduga menn sáluhólpna ad gjöra; og ad hann sé sá einasti medalgángari milli Guds og manna. Til Títum seigir hann (Tit. 2, 14): ad Jesús Christur ha=

fi útgéfid sjálfan sig, svo hann endurleysti oss frá öllu ránglæti, og (3, 5): ad Gud hafi ecki gjørdt oss hólpna fyrir verkanna sakir, heldur fyrir h. Anda, er hann hafi úthellt yfir oss, fyrir Jesúm Christ. Til Philemon skrifar hann (v. 6): ad hann fyrir trúna á Jesúm meigi vidurkénna, ad menn hafi allt þad gott, sem þeir njóta, fyrir Jesú Christs sakir. J sendibréfinu til Ebreskra stendur (Eb. 9, 25): ad Christur sé fórnfærdur til ad burtu taka syndirnar, og (10, 10) ad vér verdum helgadir fyrir fórnfæríngu hans líkama, med hverri hann hafi, þá sem helgadir verda, ad eylífu fullkomna gjørdt. Vid sama tón, sem Páll, qveda og allir hinir postularnir; Petur seigir (1 P. 1, 19): ad vér endurkeyptir sénum, ecki med gulli og silfri, heldur med Christs blódi, sem óflekads offur-lambs, og (3, 18): ad hann réttlátur hafi fyrir rángláta lidid, svo hann færdi oss Gudi. Jóhannes (1 Joh. 1, 7. 2, 2) seigir: ad Jesú blód hreinsi oss af syndum vorum, og ad hann sé forlíkunar-fórn fyrir alls heimsins syndir. Jacob (2, 1. 22. 23) seigir: ad trúin á drottinn Jesúm, þann dýrdar-

fulla, verdi, eins og rituíngin seigi um Abraham, til réttlætis reiknud, ef hún, eins og Abrahams trú, auðsýni sig í gódum verkum. Lokfins áminnir Júdas postuli (v. 20. 21): ad menn skuli (svoleidis) sig uppbyggia uppá sína allraheilögustu trú, ad þeir vænti sér miskunar drottins vors Jesú Christs, til eylífs lífs.

Öll þessi hér framfærdu ord, eptir Jesú postulum, eru berfýniliga bygd á vitnisburdi siálfs Jesú um siálfan sig, og augnamid sinnar tilkomu í heiminn, nefniliga (Joh. 3, 14—15): ad hann ætti, eins og eyr-ormurinn fordum, á gálga ad upphefiast (þad er: láta sitt líf á krossinum) til lausnar-gialds fyrir menninа, (Matth. 20, 28), svo allir þeir sem á hann trydu, ei skyldu fortapast, heldur hafa eylíft líf. Af þessu öllu er nú audsært, hvorsu audug rituíngin er af greinum þeim, sem sýna, ad fyrirgéfuníngy syndanna fáist einúngis fyrir Jesú fridþægíngar skuld; en svo sem slíkt er eingin rökfemd, ad á ydrun og lífernis-betrun eckert ríði til ad ödlast Guds nád, af því slíkir, og margir fleiri stadir finnast í nýa testamentinu, hvar trúin allein er í þessu tillitu á nafn nefnd, en hitt ecki; svo ei heldur þad, ad lífernis-

betran ein er sinnstadar, svo sem synda fyrir=gèfníngar orsøk, tilrekin, en trúin á Christ ecki, ad á trunni þar fyrir eckert ríði. Ney, hvørt um sig, heldur sínu gildi í sinni røð, eingu ad síður: En ad i nýa testamentinu er optar minst á trúna, enn í því gamla, sýnir hvørsu ad vegur réttlætíngarinnar er í því nýa liósara kéndur enn í hinu; hvar=fyrir ad lærdómum þess gamla verdur af postulanum (Rom. 12, 13) samlíkt vid nóttu, og (Gal. 4, 3. 9) vid barnastafrof, en hins nýa vid dagsbirtu. En eins og heil. andi leitadist í gamla testamentinu alvarliga vid, fyrir spámennina, ad hindra þá innbirlíngu Gydínganna, ad þeir Guds fólk væru, þar þeir væru Abrahams børn, hvad ógudliga sem þeir lifdu, og ad þeirra útvortis kyrkju=sidir dygdu eckert þeim til rétt=lætis fyrir Gudi, án hjartalags og líffernis leid=réttíngar, svo hafdi Jesús vidlíkt augnamid opt í sínum kénníngum (Joh. 8, 39), svovel sem Jóhannes skírari hans fyrirrennari (Matth. 3, 89), fyrir utan þad, sem ádur er sagt, ad kénna þeim réttiliga ad skilja løgmálid. Svoleidis hlaut þá kénníngar=mátinn ad lagast eptir fólksins ástandi. Á spámannanna døgum og fyrst á Christs tímum, medan Ceremoniu=løgmálid var í gildi, og sú trú, sem á því bygdist, ei alls raung, þurfti meir ad predika út af verkunum enn trúnni; aptur, þegar fórnfærínga trúin skyldi af=takast, en trúin á Christs fridþægíngu í hennar stad

innleidast, gjørdist ei minni þørf að predika út af henni enn verkunum; þar hvørugt má annars án vera, ef manneskjan á að fá stadist fyrir Gudi. Og svo er því enn nú háttað, að á ýmsum tímum, í ýmsum stødum og fyrir ýmsum mann-eskjum er naudsýnligra að brýna hið eina enn annað, en þó optastnær hvørutveggja.

Loksíns og yfirhøfuð kirkjota mótmælendur verir til postulans Jakobs, þar hann, með berum orðum, seigi: að maður réttlætist fyrir verkin, en ei fyrir trúna all-einasta (Jak. 2, 24); en í þessum orðum finna þeir miklu minna meðhald, enn þeir meina. Því fyrst er það af orðunum audsjeð, að hann neitar ecki réttlæti trúarinnar í vernnni, heldur því, að trúin verkalaus géti nockurn réttlætt, þar hún, án þeirra, dauð sé (2, 17. 20).

Þar næst: að postulinn með orðinu að réttlæta, meini framar að auglýsa einn, enn gjøra réttlátan, er opinbert af dæmi Abrahams, er hann (v. 21) tilleiðir; með því hann seigir, að hann réttlætst hafi af því verki, nær hann ætlaði að fórna syni sínum Isaac, þar hann þó strags á eptir (v. 23) seigir sjálfur, að Abraham sé í ritníngunni talinn réttlátur fyrir Gudi, af því hann trúði, sem var um hann sagt launga áður, enn Isaac var fæddur. Skyldi þá sá góði Jacob tala á móti ritníngunni og sjálfum sér? fjærri því! heldur

samsinnir hann því sem ritníngin segir: að Abraham hafi að sønnu fyrir Guði heimugliga, vegna trúarinnar réttlátur orðinn verið, en það hafi ecki svo hátíðliga opinberast fyrir mønnum, fyr enn hann, af hlýðni við Guð, ætlaði að offra syni sínum. Þessar áðurtøldu ástæður mótmælendanna, gégn réttlæti trúarinnar, eru nú þær sterkustu, sem eg tilveit, hvørjar þó allar reynast síst léttari, nær á sannleikans met lagðar eru, yfir hvørju vér meigum hjartanliga glaðir vera.

Það er hørmulig ástríða og megn tøfran hins vonda, sem skuli svo fángað fá hugskot mannesksjanna — og það margra þeirra, sem á heimsins vísu opt eru hinir lærðustu — að skúfa þessum blessaða lærdómi eður hann lítils að meta, sem þó er stólpi og grundvøllur (1 Tim. 3, 15) þess sannleika, er frelsa skal sálir vorar; þar menn mættu og ættu þvert á móti taka hønum með hjartanligasta føgnuði og þackláti við lifanda Guð. Því allir meiga finna, sem að vilja gá, hve óendanliga mikið þá vantar til að halda løgmál Guðs, þetta, sem þó að nockruleiti í voru eiginn brjósti ritað stendur: að elska, hann yfir alla hluti fram og náúngann sem sjálfa sig; þegar þetta heilaga boðorð er tekið í sinni, guddómlinum verðugu yfirmátaligu víðd og breidd. Og hvað sómdi oss

því sekum betur, enn audmýkja oss fyrir dómara vorum, og þannveg þyggja feiginsamliga þá stóru náð, sem hann í Jesú Christo sínum sýni frambýdur. Þar-fyrir svo sem lærdómurinn um erfda-spillínguna, og af henni fljótandi ómælilígustu synda stærd og grúa, í hugrenníngum, ordum og verkum, má verka einslags örvæntíngu, náskylda audmýkt fyrir Gudi, svo tekur þessi blessadi lærdómur um náð Guds í Christo, og vora réttlætíngu fyrir hans sakir, allt þad ógnarliga og plágufulla frá þeirri audmýkt, og lætur hana verda áuægda, róliga og af gudligrar elsku il og varma uppfyllta, svo madur finnur þá í þeirri audmýkt inndælustu hugar hvíld, fulla af fögnudi, von og trausti.

En framar ad seigja: audvirda sú og mínkun, sem heimsmenn sumir fást um, ad gjörd sé manuligri náttúru, med ad álíta hana svo gjörspillta, sem ádur er sagt, og manneskjuna þessvegna — eptir edli sínu — í fordæmíngar standi fyrir Gudi, þessi audvirda, seigi eg, ef nockur væri, afmáist ecki einúngis gjörsamliga, med lærdóminum um vora réttlætíngu fyrir Christs skuld, heldur veitist henni aptur í stadinn þvílík upphefd og æra, sem lángt yfirgeingur þá, sem hún hefdi ödlast gétad, þó sinni upprunaligu prýdi og ágjæti haldid hefdi; svo þeir sem þessum blessada lærdómi neita, standa einmidt í gégn sínum eiginn sóma; og verdur svo þessi ávoxt-

urinn af þeirra drambi, sem bannar þeim ad audmýkja sig svo fyrir Gudi, sem ber, ad þeir meiga vara sig, ad ecki rætist á sér, það sem Guds ord seigir: ad Gud mótstandi drambblátum, en lítillátum géfi hann náð (1 Petr. 5, 5).

Hvörsu mjøg ad lærdómur þessi, um réttlæti trúarinnar, réttbrúkadur, kroptugur sé ad betra hjartalag manna og líferni, verdur ecki útsagt. Ef elskan til Guds og manna er rót allra dygda, er einginn lærdómur kroptugri til ad uppvekja hann, en þessi; því hvad gétur framar hrært mannligt hjarta til ad elska Gud sinn skapara, enn íhugan hans ómæliligu elsku og velgjørda til vor í Christo Jesú, og undireins verdur hlýdnin vid hans heil. bodord bædi audveld og inndæl? Eins — hvad má framar uppteudra í manni sanna elsku til sinna medbrædra, enn það, ad Gud hefir elskad alla jafnt í Christo, veitt øllum jafumikla náð, og géfid øllum jafnmikinn rétt til eylífrar sælu? Því svo sem lærdómurinn um sameiginliga spillíngu náttúrunnar í sér og ødrum, og það, ad einginn er af náttúrunni fyrir Gudi ødrum betri, getur vardveitt hjarta manns kroptugliga frá øllu stolti og forakti annara, samt íminndanlu um erfdasyndarinnar bauvæni í sjálfri sér, vakid sterkt hatur til hennar, og alvarliga vidleitni ad hindra hennar útbrot, svo gétur lærdómurinn um krapt Guds nádar í Christo

til ad lækna syndina, upptendrad í oss heita eptirlaungun til ad njóta Jesú fridþægjanda réttlætis, (þar vér vitum, ad þad er sú einasta lækning vid vorri synda=sýki), og ástunda þess trúligar ad leita þess, med lifandi trú og bæn, hjá vorum frelsara; einkum þar vér vita meigum, ad vanrækt edur vanbrúkun þessa dýrmætasta medals, eykur stórkostliga voru fordæmíngardóm (Ebr. 2, 3. 10, 29); þar ed Christis fridþægíngar forsmán med vantrúnni, sem er einhvør hin þýngsta synd, bætist þá ofan á allar adrar syndir vorar, oss til fordæmíngar. Má því lærdómur þessi réttskilinn eins sterkliga halda oss aptur frá andvaraleysi, sem vekja í oss heil. drift, fyrir kjærleikann, ad gjøra Guds vilja; hvørs þó hann orki hjá' offáum, er þad ei lærdóminum ad kénna, heldur misbrúkun hans. Hvørs vegna, ad hønum burtuskúfudum, menn missa eitthvørt hid sterkasta upphvørfunar=medal til ad óttast Gud og elska; og er missir sá hinn allra skadligasti, og þeir þess vegna hinir skadligustu, sem leitast vid ad svipta oss því; þar ei vill afveita, menn elski Gud og óttist sem ber, þó ecki sén þeir hinum kreptugasta lærdómi og medali, er þar til þénar, rændir.

Ofan á allt þetta gétur þessi blessadi lærdómur gjørdt oss yfir=máta þolinmóda i ellu mótlæti, og ørugga i sjálfum daudanum, sem audskilid er af hans náttúru. Því med því hann ecki einasta fullvissar oss svo óyggjanliga um

fyrirgéfníngu synda vorra, fyrir Jesú blód og dauda, heldur þar ad auki kénnir, ad vér höfum líkasem einstags erfda-rétt til eylífrar sælu, fyrir Jesú oss tileinkudu forþénustu sakir, gétur hann burtu numid frá oss allan ótta fyrir Guds hegnanda réttlæti í eylífdinni, en fyllt oss fögnudi og tilhlökkun eylífrar sælu, eptir líf þetta, í Guds dýrdar-ríki; hvörja sína dásamligu verkun þessi lærdómur sýnt hefir á mörgum þúsundum Jesú píslar-votta, sem ecki einúngis hugprúdir heldur fagnandi og hlackandi geingu útí grimmustu píslir og dauda; og þessu líkt hefir hann verkad hjá mörgum ödrum sannchristinna, eptir mælíngu þeirra trúar, hvörjir rétt sigrihrósandi í Christo — fyrir hvörs blód þeir hafa sigurinn unnid — geingnir eru úr tímanum inní eylífdina.

Ad lyktum er verdt ad minnast þess, ad fyrir utan allt ádursagt, er enn nú eitt sem þessum himneska lærdómi: um Guds nád í Christo og vora réttlætíngu fyrir hans sakir — má stórum til gildis telja, þad nefniliga: ad hann í öllu tilliti er ó-hultur fyrir vora sálar velferd. Því þó þad væri eins mögulígt — sem þad er ómögu-ligt — ad vér færum villt í því, ad gjöra ofmikid af synda-spillíngu vorri, og álíta oss ómakligri gjöds af Gudi, enn vér reyndar værum og undir eins hans nád vid oss stærri, enn hún í verunni væri, og þokkudum hönum því meira,

enn vér hefdum orsøk til; hvad mundi þad géta skadad oss fyrir hans dómi, þegar þad hefdi þó, medan lifdum, ad eins ollad því og ecki ødru, ad vér elskudum hann því framar, og hlýddum honum því betur og fúsligar. Hvert á móti, ef vér skyldum álíta oss betri enn vér erum, og Guds náð í Christo vid oss ecki svo stóra, sem hún í sjálfri sér er, og þess-vegna ecki þacka þad Gudi, sem vér þó reyndar ættum, (sem allir þeir standa í stærstu hættu fyrir ad gjøra, sem náttúru-spillínguna neita, og Jesú fridþægíngar dýrmæti ríra edur reingja), hvør mundu þá vor forløg verda fyrir dómi Guds? Til hvílíks straffs mundum vér þá dæmast fyrir drambsemi vora, sjálfbyrgíngs-skap og forøktun Guds nádar? Gud vardveiti oss alla frá slíkum ókjørum!

Látum oss því, brædur! látum oss med audmjúku og þacklátu hugarfari taka þessum dýrmætasta lærdómi; já, látum hann verka hjá oss þad sinnislag, sem ádur er sagt, svo vorrar trúar mótstandarar ei géti brugdid oss um, ad vér látum þennan lærdóm leida oss til andvara-leysis, sem er svo þvert á móti hans náttúru! Heldur látum þad sannast í lifnadi vorum, hvørsu hann med sínum guddómliga helgandi krapti, hafi þreyngt sér í gegnum hjørtu vor, og uppfyllt oss med Guds og náúngans kjærleika, med sjálfs-afneitun, med þolinmædi og allskonar fegurstu dygdum, trúarhøfundi vorum til æru.

Med þvî móti munum vér géta áunnid þús-und fleiri, til ad hyllast lærdóm þennan, enn þó vér einúngis med ordunum hrósum honum og verjum hann, ef lifnadurinn samt ecki svarar játníngu vorri; og þá mun líka játníng hans og vorn verda oss til jafnstórs sóma fyrir mönnum, sem fyrir Gudi. Já, látum oss þráfaldliga med hrærdum hjörtum þacka Gudi og Födur fyrir sína nád í Christo, og álíta hana sem þá dýrmætustu gáfu af öllum, sem hann oss gésid hefir, og af hvörrar medferd vér höfum þó þann þýngsta reikníng ad standa. Sé hún oss hin sætasta uppörfan til ad elska Gud, sterkasta til ad hlýda honum og einasta til ad vona hans miskunar, og þannig vor skjærasta leidarstjarna í lifinu, en óbifanligasta líf-atkjeri i daudanum!

Svo viljum vér þá enda þessa hugleidíngu med audmjúkri andvörpun.

Vertú, himneski Fadir! Fadir drottins vors Jesú Christs, þú dýrdarinnar Fadir, vertú eylífliga lofadur, fyrir þína ómetanligu nád i Christo, med hvörri þú opnad hefir oss aptur adgáng til þeirrar — og þó lángtum stærri luku, sem vér töpudum í Adam! Vér höfdum aldeilis misst þad réttlæti sem fyrir þér gildti, og gátum ecki, vegna spillíngar náttúru vorrar, ödruvís enn eylífliga óluckuligir ordid; hvar á ofan bættust vorar óté-

kuligu gjørauligu syndir, sem munu til eylífs dauda=dóms; en til ad afpláua allt þetta, svovel til ad lækna vora náttúru, sem líka fyrir vorar synd=ir, og þar á ofan til ad afreka oss nýtt for=þénandi réttlæti, gafstú oss son þinn Jesúm Christ. O hvad farsæla má þessi gáfa gjøra oss, ef vér notum oss hana réttiliga! farsæla í trúnni hér, sem festir sig á þínum fyrirheitum, og farsæla í medtekníngu þeirra sømu fyrirheita í eylífdinni. Oss vantar af náttúrunni bædi vit, vilja og krapta til ad gjøra nockud sannarligt gott; og þó þú fyrir þíns sonar anda, géfid hafir þeim, sem honum ecki móti standa, nokkurn hæfi=ligleika til góds, blandar sér þó náttúruspillíngin svo mjøg innt allar, jafnvel vorar skárstu, athafn=ir, ad þær ecki ad eins tapa hreint øllu gildi til nokkurrar forþénustu hjá þér, heldur jafnvel, vegna vidlodandi saurugleika, vinna til refsíngar; þessvegna bidjum vér af øllu hjarta, láttú oss einúngis njóta þeirra gódu verka, sem þinn sonur Jesús unnid hefir í vorn stad þér til þóknunar; og ecki ad eins fyrirgéf oss hans vegna øll vor ill verk, heldur jafnvel allan þann vansa og lýti, sem fylgir vorum svokølludu gódverkum í þínu augliti. Vér tileignum oss hans réttlæti, því hann tileignadi sér vort ránglæti; og gjør oss eins ad réttlæti í honum fyrir sjálfum þér, sem þú gjørdir hann ad synd í vorn stad; þó hann sjálfur af eingri synd hjá sjálfum sér vissi!

Já, lát þinn og hans heil. Anda sannfæra oss, svo vel um syndina í oss til fordæmíngar, sem um réttlætið í honum til sáluhjálpar; já, réttlætið fyrir trúna á þíns sonar nafn, til þeirrar trúar, hverrar endalok er lífið og sáluhjálpin! Bænheyr oss fyrir hans skuld, sem er Jehova vort réttlæti, hverjum með þér og heil. Anda sé dýrð og vegsemd að eylífu! Amen!